# Agrip

þess,
er giørdist og framfór
fyrir
# Løgþingis-Réttinum,
Arid 1796.






Leirárgørdum vid Leirá, 1796.
Prentad á kostnad Biørns Gottskálkssonar,
af. Bókþryckiara G. J. Schagfiord.

## NUM. I.

Anno 1796 þann 11 Júlí, vid Öxará, var af Hra. Logmanni M. Stephensen uppá eginn og Hra. Logmanns M. Olafssonar vegna, sett almennilegt **Lögþing**, sem vegna heilsu lasleika beggia Logmannanna og undanfarinna hardvidra gat ei fyrri ordid. Til Logþingis-Réttarins þénustu nefndi Hra. Logmadur M. Stephensen þessa Logréttu-menn, nefnilega:

Ur Arness-Syslu:

Beintein Ingimundsson og
Magnús Þórdarson, hvor sidari sór sinn eid.

Ur Gullbringu-Syslu:

Gudmund Jónsson ný-nefndann, sem hefir ádur svarid.

Ur Kiósar-Syslu:

Lopt Þorkélsson og

Ur Borgarfiardar-Syslu:

Sveinbiorn Þórdarson, sem bádir ný-nefndir sóru sinn eid.



## NUM. VI.

Þann 12 Júlí ad Hra. Løgmanni M. Olafsſyni í Løgriettu ſetſtum, kom fyrir Riettinn Sýſlumadur Sigurdur Peturſson og framvíſadi Forlíkun af 11ta Maí næſtl. í þeirri í fyrra fyrirløgdu Søk úr Veſtmannaeyium, Marteins Arnaſonar contra Berg Brinjúlfsſon ſamt Sýſlumann Jón Eiríksſon; Forlíkunin var upplesin og nót. lit. B. Sýſlumadur Sigurdur aſſalar ſier því, ſem tilſkickadur Talsmadur Marteins þeſſa Søk, bidiandi, þar hiá Riettinn med tilhlýdilegri Múlct ad álíta Berg Brinjúlfsſon, ſem hvørki mætti í fyrra edur nú hefir ſendt ſín fyrra árs Forføll.

Hvar uppá Rétturinn tilfinnur Berg Brinjúlfsſon, ſem hvørki mætti hér hid fyrra ár, né þá, edur nú hefir innſendt ſin Forføll, ſkyldugann eptir Reſcriptinu af 28 April 1784 ad betala til Løgréttunnar vidurhalds 2 rdli D. C.

## NUM. VII.

Hra. Løgmanns M. Stephenſens Urſkurdur þann 13da Júlí um Sýſlumanns O. Vídalíns Exception ſub. lit. C.

Þad er ſitt hvad ad vera Fullmegtugur eins Kaupmanns til verdſlunar ellegar til málaſókna; til þeſſara krefiaſt Høfudpartanna Fullmaktir auglýſtar á þingunum, ad hvørr og einn viti med hvada myndugleika mál færaſt á hendur ødrum, um virdíngu, embætti og eignir manna. Á móti

Sýslumanns Odds affögn, ad gégna hér þeirri Løgþingis-stefnu, er Jóhann Thorberg, Assistent á Vatneyri hefir út-tekid fyrir Kaupmann Herning móti Sýslumanni Oddi, kann þetta mál hér ecki eptir sømu stefnu ad sœkiast, fyrr enn sú krafda Kaupmanns Hernings fullmakt verdur hér í ár framløgd, ellegar málinu er ad nýiu stefnt; þar á mót verdur Sýslumanns V. Þórarinssonar forsvar í málinu gégn Sýslumanns Odds Vidalíns Contra-stefnu, því framar medtekid fyrir Kaupmann Herning og adra málsparta, sem Jóh. Thorberg hefir á løglegum stødum óskad og fengid þenna. Talsmann þeirra, bædi fyrir sinn útlenda húsbónda, í hvørs stad Sýslumadur Oddur og hefir látid sér nægia ad auglýsa Contra-stefnuna Jóhanni Thorberg, og adra med henni innstefnda málsparta.

## NUM. XI.

Urskurdur Hra. Løgmanns M. Stephensens um giørda Exception af Sýslumanni Jóni Jakobssyni, mót Løgdags-leggíngunni af 20ta Júlí 1795, giørdur þann 15 Júlí 1796.

Ad sønnu býdur N. L. 1—4—3 ad stefnu-vottar sverie á Hérads-þíngum, þá

þørf giørist, um stefnu-auglýsingar, en eckí eru þeir skyldadir ad mæta til sama á Løgþingum, hvad og væri gagnstædt 1 — 2 — 3. Sýslumadur Jón Jakobsson hefir í innleggi af 14da þ. m. løgdu hér í Rétt sama dag, játad sig medtekid hafa Copiu af Løgþingis-stefnunni þann 14da Apr. 1795, þá hún eptir uppáskriftinni tiáist honum í Héradi birt, lika vid auglýsíngu Løgdags-leggíngarinnar þann 17da Sept. 1795 hafa sied original-stefnuna, því var honum þá gefid eins og nú ad samanbera vid hana sína Copiu, og annars bar honum í héradi, hvar sækiandans og stefnuvottanna varnar-þíng er, ad ákiæra, ef hann hélt naudsyn þar til, stefnu-førina og hennar umgáng allann, og med Hérads-prófi þar um hnecktia nú hennar framgángi hér fyrir Løgþingis-rétti; en þar þetta er híngad til forsómad, þó mál þetta hafi svo lengi dregist, skal stefnan nú hafa sinn framgáng, en Sýslumanni Jóni Jakobssyni sé geymt í Héradi ad ákiæra þá bresti, er hann þykist finna vid stefnunnar áskrift, gefnu Copiu edur vottanna óhæfilegleika, þegar hann þad girnist.

## NÚM. XIV.

Þann 18 Júlí s. m. settist í Dómara-sæti Hra. Lögmadur M. Stephensen og afsagdi svo látandi Dóm í Skammarorda-málinu úr Bardastrandar-Sýslu.

Kaupmadur Pétur Herníng á Vatneyri, Beikirskona Bergliót Einarsdóttir og húsmadur Haldór Olafsson samastadar hafa med Stefnu-fyrirkalli af 14 Aug. 1795 logdu í Héradsrétt ad Saudlauksdal þann 31 sama mánadar, hofdad málssókn á móti Sýslumanni Oddi Vídalín, fyrir skammaryrdi, er hann tiáist ad hafa í frammi haft í dryckiuskap vid nefndar persónur þann 5ta August 1794 ad Vatneyri og sídan ei apturkallad. Med innleggi af 24da Aug. 1795 innsendu á Hérads þíngid, afsegir Sýslumadur Oddur í alla stadi ad mæta þar, stefndur og ólöglega stefndur, ecki á varnarþíng hans, heldur í adra þíngsókn med 11 virkra daga fresti frá 17da Aug. þá stefnan var birt, og þessvegna mótmælir hann þar allri vitnatekt og málssókn, en sá setti Dómari í Héradi fyrrum Sýslumadur Biarni Einarsson, dæmir þá afsogn med álogdum úrskurdi ógylda, tekur vitni í eid, og tínir upp framburd þeirra um skammar orda mál þetta ad Vídalín fiarlægum, leggur honum logdag til 3ia Septembr. ad mæta á sama stad, en þar mætir þá ad eins ný afsogn Sýslumanns O. Vídalíns, ad gégna

ſvo ſtuttri logdags-leggíngu, honum birtri ad qvoldi þeſs 11ta Sept. og eins á móti ollum dómi, hvor þó er ſkyndilega árekinn, og Sýſlumadur Vidalín dæmdur ad bæta hvorium af zur ordſkémdum ſœkiendum 40 lódum ſilfurs alls 60 rdlm, en til Júſtits-Caſſ. 3 rdlm og í málskoſtnad 24 rdlm, þar hiá er bendt til hans Embættis-topunar eptir N. L. 3—4—4; allir málspartar lyſa nú appelli og ſtefna ſídan hvorr odrum áſamt Héradsdómaranum fyri þenna Logþíngis-rétt. Jóhann Thorberg, ſem áttekur Logþíngis-réttar ſtefnu fyri Kaupmann Herníng, lætur hér enga fullmakt þar til leggia í Réttinn, ſem Sýſlumadur Vidalín kreſur, egi ſtefnan ad metaſt í nockru gyldi, þar hún ákiærir hann til Æru- og Embættis-tións; en Sýſlumadur Vidalín Héradsdóminn ſem marklauſann. An þeſs ad fegra í nockru Sýſlumanns Odds Vidalíns vitnada dryck-iuſlark og annad Yfirvaldsperſónum óſœmilegt látædi og argaſas, ellegar mæla ſkammarordum nockra bót, gêfnum heidursfólki, finnur Logþíngis-rétturinn vid Hérads-próceſs þeſſa ordamáls athugandi:

1.) Sýſlumanni Vidalín rángſtefnt á annad enn hans varnat-þíng, med ſvo klénum ſtefnufreſti og allrahelſt oſſtuttum logdegi, því hvad ſiglíngum Hernings vidviek, breytti ei varnar-þíngi Sýſlumanns Odds né ſtefnufreſti í meir enn ársgomlu ordamáli, ſem þá ſyrir laungu mátti komid vera undir dóm.

2.)

2.) Þvert á móti N. L. bodi í 1—13.—22 og 23, samanbornu vid 1—14—1, og 6—21—3, er hér hafin haturslég málsókn og vitnaleidsla um skammarord eptir lidid ár, en fyritekt sú, ad Sýslumanni Vídalín fiarlægum og skriflega affegiandi allt rángsnúid réttarhald og dóm, segrud med þeim lausa framburdi hans mótparta, (hvorn þó enginn eidur, né til mála-mindar attest nockurs óvidridins merkis-manns stadfestir) ad í Augústó 1794 hafi med Póstinum farid skrifleg bón, um settann Hérads-dómara til Hra. Stiptamtmannsins, en svar fyrst komid (sem prócessinn hermir) þann 11ta Júlí 1795, þó hann upphaflega greini ad Hra. Amtmadur Vibe hafi þann 23 Júlí s. á. sett fyrrum Sýslumann Biarna Einarsson Hérads-dómara í málinu; skickanin þar um er og hvörgi í prócessinum ad finna; ecki ad nefna, ad vidkomendum var fyrri á øllum þeim lidna árs tíma géfid ad senda beint eptir svari hérum, fyrir hvörs flutníngi þeim og einum vidkom ad ala ønn, svo málssókn eptir N. L. 1—13—22 og 23, mistist ei med oflaungum drætti, þar nefndir articular og mørg hér ad lútandi Kóngsbréf giørsamlega votta: hvørsu litla affökun dráttur og forsómun sóknar í ordamálum, finnur í Løgunum; allrasíst kann hann ad lengia ákiæru-rétt, mót þeim, sem Løgin segia ákiærulausa ad ári lidnu.

 3.)



3.) Eru Vatneyrar heimilis vitní øll, og ó-samhlióda framburdur nockurra af oflitlu verdi eptir N. L. 1—13—1 og 17.

4.) Er auglióst óløglegt medhald Hérads-dómarans med Vatneyrar fólki, og allt eins fávísleg og hirdulaus medhøndlan svo árid-anda máls, sem þessa, er varda mátti æru, embætti og tímanlega velferd Yfirvaldsmanns.

Því dæmist rétt ad vera:

Sá ósannadi óhródur, sem Sýslu-madur Oddur Vídalín hefir frambor-id ad Vatneyri þann 5 Aug. 1794 sé marklaus; en um hann hafi Kaupmad-ur Pétur Herníng og medsækiendur hans eptir N. L. 1---13---22 og 23 fyr-irgiort allri Lagasókn mót Sýslumanni Oddi Vídalín, nefndur Sýslumadur hafi fyrir sannad ósæmilegt framferdi hans ad ødru leiti, dryckiu-slárk og arga-fas í frammi haft sama sinn, einninn fyrirgiort øllum málskostnadi í þessu orda-máli. Sá fávísi Hérads-Prócess og Dómur, genginn ad Saudlauks-dal þann 31 Aug. og 3 Sept. 1795 er og veri sem enginn, og Hérads-dómar-

inn

inn fyrrum Sýslumadur Biarni Einarsson bæti 1 rdl. til Júſtitz-Kaſſans, sér til betri lærdóms framfara, innan 4ra vikna frá þessa Løgþingis-réttar Dóms løglegri auglýsíngu, undir adfør eptir Løgum.

Sýslumadur Vigfús Þórarinsſon hefir sínum Principaler forbeholdid ad appelléra til ædri Réttar, en Sýslumadur Oddur Vidalín tiáir sig ánægdann med Dóminn.

NUM. XV.

Sama s. m. fiell Hra. Løgmanns M. Stephensens Urskurdur uppá Sýslumanns Jóns Jónssonar Exception mót Haldóri Jakobssyni þannin:

Fyrir órélega medferd á strøndudu ſkips-góſsi og misjafnann umgáng med því vidvíkiandi embættis-ſkiøl, er fyrrum Sýslumadur í Stranda-Sýslu Haldór Jakobsson med Løgþingis-réttar-dómi af 22 Júlí 1790, sem er og stendur í fullu gyldi, dæmdur frá Sýslumanns embætti, og í 100 rdla bætur til Kóngsins, 8 rdlr til Júſtitz-Kaſſans og 52 rdli í málskostnad til 3gia Sýslumanna, er ad Há-yfirvaldsins bodi sóktu mál þar um og prófudu,

honum



honum á hendur. Þar nú Sýslumadur Jón Jónsson assegir ad gánga hér í Rétt mót Haldóri Jakobssyni, sem løgfeldum manni í óbættum søkum, og Haldór engar qvittéringar sýnt gétur, þar um hér fyrir Rétti krafinn, er auglýsi ad hann fyrir sig hafi bætt, eptir áminnstum Løgþíngis-Dómi, þá er nefndur Haldór Jakobsson eptir N. L. 1---9---1, 2 og 4 Art. samanbornum vid N. L. 1---22---13 og 14 Artik. ógyldur til ad sækia mál fyrir nockrum Rétti, fyrri enn hann annadhvørt hefir til fullnustu fyrir sig bætt, edur af Hra. Stiptamtmanninum, sem einn má talsmenn fyrir Løgþíngis-réttum skipa, (nema hvar Kóngsbréfid af 28 Apr. 1784 leyfir þad Løgmønnum), ellegar girnist hann fyrir Hérads-réttum mál ad sækia, þá af vidkomandi Amtmanni, fengid sér talsmann settann, sem hans vegna megi naudsynlegum málasóknum framfylgia.

Haldór Jakobsson lýsir Appelli frá þessu Interlocutorio og lætur í liósi ósæmilega frekiu og grófheit fyrir Réttinum, hvørs vegna Haldór múlcterast um 2 rdli til Jústitz-Kassans.

*NUM.*

## NUM. XVIII.

Þann 20 Júlí f. m. vóru nálægir í Lögþíngis-réttinum HHerr. Stiptamtmadur O. Stephánsson, Amtmadur Vibe, Lögmadur M. Stephensen, Vicelögmadur Gröndal í Hra. Lögms. Olafssonar forföllum, samt Hra. Landfógeti Finne og adrir tilstadarverandi Köngl. Embættismenn. Liet svo Hra. Stiptamtmadurinn upplesa fylgiandi Forordníngar:

1.) Af 10da April 1795, hvornin ákiæra skuli náfrænda skipti.

2.) Plakat af sama dato um vedsetníngu fyrir eignum opinberra stiptana.

3.) Forord. af 10da Júlí 1795, um forlíkunar nefndir manna allstadar í Danmörk og Kaupstödum Noregs.

4.) Forordn. af 4da Dec. 1795, ad leigusamníngar um veniu lengri tíma skuli þínglýsast egi þeir ad gylda á móti pants- og afsals-bréfum.

5.) Cancellie-bref af 14da Maí 1796, sem géfur til kynna ad Konúngleg Hátign hafi þann 22 Jan. f. á. allranádugast úrskurdad, ad hér eptir mégi ei til Hans giora beidni um fullkominn adskilnad þeirra hióna, sem ei lengur enn 3 ár hafi verid skilin ad bordi og sæng, nema hiónin hafi sérílagi verid kollud fram fyrir sérhvorrs Yfirvald, ellegar bædi saman, sé Yfirvald beggia hid sama, og áminnt til forlíkunar og samlífis á ný; skal



ſkal og hvørt Þeirra, ſem vill gipta ſig aptur, með góðum ſkilrikium ſanna, ſitt ákiærulauſt og óſtraffanlegt líf og lifnað.

Hra. Stiptamtmadurinn og Hra. Amtmadur Vibe lietu uppleſa þeſſa auglýſingu:

Þared Þad Konúngl. Danſka Cancellie heſir með úrſkurdi af 3ia Maí. 1769 ſkipað, ad fyrrum Preſtur Olafur Giſlaſon ſkuli vaktaſt innan Dala-Sýſlu, ſvo ad hann hvørki géti riátlad burt, né heldur nockurr Þurfi ad óttaſt neitt illt af honum; enn hann ſamt ſem ádur ſer á ýmislegt ſtack og allſtadar hvar hann kémur ónádar og áreitir fólk, og jafnvel, vegna hans með vondſku blöndudu rádleyſu, kémur ótta ad fólki með hótunum og ødru ordalagi; ſvo ſkipaſt hér með Innbyggiurum í Sudur- og Veſtur-Ømtunum, einkanlega í nálægum Hérodum vid Dala-Sýſlu, ſtrax ad ſlytia hann á næſtu Hreppſtióra, hvørium einnum hér með ſkipaſt tafarlauſt ad láta hann flytia um hæl til baka til Dala-Sýſlu, hvørt ſem hann heſir nockurn paſſa edur engann ad ſýna frá Sýſlumanninum þar.

Vid Øxará Þann 20ta Júlí 1796.

D. Stephánsſon. J. C. Vibe.

Hra. Landfógeti Finne lét uppleſa liſta uppá útſtandandi Reſtanſa til Jardabókar-Kaſſans til 19da húſus, og Þeſſu næſt eptirſpurdi hvørt Hans Konúngl. Majeſt. væru tilfallnar nockrar forbretnar búslódir, ſtrond-

ud ſkip edur arſalauſt góts, edur og bætur fyri tóbaks- og brennuvíns-okur? hvartil nálægir tilſtadarverandi Sýſlumenn ſvorudu: nej.

Hér næſt var upplesin auglýſing Hra. Stiptamtmannſins og Hra. Biſkups Dr. H. Finnsſonar: ad Reykiavíkur Skóla Bibliótheк og Skólans hlaupandi Reikninga, haldi nú ſem ſtendur Rector Gíſli Thorlacius og Prórector Jakob Arnaſon eptir þeirra á milli inngéngnum Samníngi.

## NUM. XXI.

Þann 22 Júlí affagdi Hra. Løgmadur M. Stephenſen ſvolátandi Dóm í Brigda-máli Hóla í Laxárdal:

Arid 1793 hefir Preſtinn á Grenjadarſtad Sra. Thómas Skúlaſon fyrir heldnum Manntals-þings-rétti ad Saurbæ innan Vadla-Sýſlu lýſt brigd á jørdunni Hólum í Laxárdal innan Nordur-Sýſlu, hvoria Stiúpi hans Sra. Jón Þórarinsſon í adþreyngiandi bágindum 1784 tiáiſt ad hafa ſelt Markúſi Markúsſyni þá verandi á Lóni, en hann aptur Hallgrími Preſti Einarsſyni Thorlació á Miklagardi; ódals og innlausnar-rétt ſinn til tédrar jardar, hefir Sra. Thómas med framſettum lauſum ſpurníngum til þíngmanna á Skútaſtada Manntals-þíngi um vorid 1794, og þeirra útgéfnum óſvornum andſvorum, ad Sra. Hallgrími óſteſndum og

fiær-

fiærverandi, leitast vid ad styrkia; sídan kallad nefndann Sra. Hallgrím. fyrir Hérads-rétt ad Saurbæ í Vadla-Sýslu þann 26 Júní s. á., medal annars til ad heyra og siá skilríki sin um ódals-rétt sinn til nefndrar jardar, medtaka hennar andvirdi og lída Dóm um hennar afhendingu til sín, eptir Sra. Hallgríms fyrirbornu loforði ad Saurbæ þann 29 Maí 1793, vid hvert Sra. Hallgrímur alls ecki vill kannast, og skirskotar bædi til þingvitna þá og haldins Hérads-Prótócols, hverium hann lýsir, ad sönnu útvortis rángt, en eptir því, sem hann med sér ber, hér fyrir Logþingis-rétti sýndur, réttara innvortis. Þetta fyri-borna loford Sra. Hallgríms, er þó medal þeirra ástæda, sem grundvalla ættu Hérads-dóm Sýslumanns Jóns Jakobssonar, geng-inn ad Saurbæ þann 26 Júní 1794 og sem frádæmir Sra. Hallgrími eignarhald nefndra Hóla framvegis; hefir Sýslumadurinn og vil-iad tilbakareka Sra. Hallgríms Prótócols-lýsingu, med því ad taka siálfur þingsvitni um hana þann 21 Aprílis 1796, til hvorrar vitnaleidslu þó ei siest ad Sra. Hallgrímur hafi kalladur verid, né heldur ad Sra. Hall-gríms loford sé nefnt. A Hérads-þinginu 1794, affegir Sra Hallgrímur sifellt ad mæta á ødru enn málsins varnar-þingi til dóms, og þetta var eptir N. L. 5--3--10 jordin siálf í Nordur-Sýslu; affegir stefnufor og umgáng allann Sra. Thómasar, sem Dóms grundvoll

og

og þar hiá einn af meddóms-mønnunum, hvørn hann tiáir ad vera bródur Sra. Thómasar, og þar kominn í Dóms-sæti, þvert á móti nefndri Laga-grein, og loks assegir hann oll Dóms-atqvædi af ødrum enn hlutadeigandi Dómara á réttum stad í Nordur-Sýslu, skirskotar til vitna, er hann qvedst vilia og þurfa ad leida, og sannar sig ersidt eiga med ad fá stefnuvotta eptirlátna sér; óskar í innleggium sínum einatt Réttarins úrskurdar um þessar assagnir, en Prócessinn veit ei af ødrum úrskurdi enn einum, sem skyldar Sra. Hallgrím ad framleggia kaup-bréf fyrir Hólum milli Sra. Jóns heitins Þórarinssonar og Markúsar, siálfum sér á móti, þess vegna ei samqvæmum R L 1-14-5, ecki ad nefna þá ósvornu Skútastada vitnisburdi, sem Sra. Hallgrímur bidur ei áslitist; og hefir þar í Laganna medhald í R. L. 1-4-1; samt verda þeir Hérads-dómsins grundvøllur, og annar sá, ad Sra. Hallgrímur hafi undirgengist ad lída Dóm á Saurbæiar þingi af Sýslumanni Jóni Jakobssyni, med því ad contrastefna Sra. Thómasi þangad, og í innleggi ad segia sig ei vilia forsaka hans kiærleika med stefnu-farir til þessa þings, enn þótt Contrastefnan beri þad med sér, ad Sra. Thómasi er stefnt ad eins a.) til ad heyra skilriki Sra. Hallgríms um eignar-rétt hans til Hóla. b.) ad fráleggia sér med eidi ad jørdin hafi honum ei ádur løgbodin verid; og c.) þar um



liða útþryckilegann Dóm og undir eins fyrir þau ólög hann hafi í frammi haft, að ſtefna ſér ei á varnar-þing ſakarinnar; en hvað hann í innlegginu ſinu nefnir um Sra. Thómaſ-ar áðurnefnda kiærleika, verður því ſíður í alvöru ſkilið, heldur ſem ſagt uppá ſkop, ſem ſömu innlegg, áſamt öllum Próceſſinum með ſér bera, að Sra. Hallgrímur ætíð hefir af-ſagt allann Dóm að Saurbæ og Dómar-ann þar, þó þeſſi auðſiáanlega hafi allt of-ein-lægt tekið, og undir eins ofmiög Sra. Thóm-aſi í vil, útlagt orð hans. Að þeſſu og giör-völlum málſins kríngumſtæðum grandgæfilega athuguðum, dæmiſt rétt að vera:

Sra. Thómas Skúlaſon, ſem ei hefir reglulega að Lögum ſannað inn-lauſnar-rétt ſinn, hvörki til lítils parts né allrar jarðarinnar Hóla í Laxárdal innan Norður-Sýſlu, en í þeſſari máls-ſókn í frammi haft ýmisleg króka-ólög, hafi fyrirgiört öllum innlauſnar-rétti til ſömu jarðar, eptir þeirri að Saurbæ 1794 höfðuðu málsſókn og þar gengn-um Dómi, ſem hérmeð er upphafinn, og gialdi Sra. Hallgrími Thorlació 4rdli í málskoſtnað, en Héraðs-dómar-inn og meðdóms-menn ſama Thorlació

aðra

ádra 4rdli. innan 4ra vikna frá þessa Løgþingis-réttar Dóms løglegri auglýsíngu, undir adfør eptir Løgum. Akiærur fyrir Sra. Hallgríms framburd á Saurbæiar-þíngi, þann 26 Júní 1794 um Sýslumanns Jóns Jakobssonar Hérads-Prótócol, hvar um aldrei er enn í Héradi dæmt, sé Sýslumanninum geymt, ef hann girnist, ad hefda á Prestsins fyrsta og rétta varnar-þíngi í Héradi.

## NUM. XXII.

Sama s. m. afsagdi Hra. Løgmadur M. Stephensen svolátandi Løgdags-leggíngu í Barsmídar-málinu úr Snæfells-Sýslu:

Sýslumanni Jóni Espólín, Skyrimanni Jens Pedersen Kiergaard, og hans Principal matrósinum Niels Knútssyni, ásamt talsmanni Arna Biørnssyni á Holti innan Snæfells-Sýslu, leggst hér med eptir N. L. 1--4--32 løgdagur til ad mæta fyri næsthaldandi Løgþingis-rétti vid Øxará þann 8da. Júlí 1797, siálfir, edur þeirra af Hra. Stipt-

 amt-



amtmanninum settur talsmadur; forføll sín í ár, undir sektir, ad sanna, og dóm ad lída eptir Løgþíngis-réttar-stefnunni af 7da Apr. 1796, þá úþryckilegur Dómur verdur í málinu eptir framkomandi røksemdum, laga og réttar fyrimælum, dæmdur; þessa Løgdags-leggíngu, sem á høfudstefnuna og er skrifud, skal sækiandinn auglýsa hlutadeigendum í tækann tíma.

## NUM. XXIII.

Sama s. m. afsagdi Hra. Løgmadur M. Olafsson svolátandi Dóm í Arfaþrætu-málinu úr Borgarfiardar-Sýslu:

Upptøkum og og addraganda þessa Arfaþrætu-máls er þannveg varid: Arni Grímsson vinnumadur á Brecku á Hvalfiardarstrønd, verdur á skiptapa þann 8da Júlí 1795. Ecki fullum 3ur vikum sídar, nl. þann 28da s. m. fædir Þórdís nockur Klemensdóttir 3 børn og lýsir Arna heitinn Grímsson fødur ad þeim, hvor øll dóu skommu sídar. Eigur þær og fémunir er Arni sál. átti á Brecku uppskrifast og virdast þann 4da Aug. s. á., hvar af þó hlutadeigendur Runólfur Gissursson, vegna konu sinnar Valgerdar Grímsdóttur|og teingda-módur Cecilíu Pétursdóttur (sú fyrri systir, sú seinni módir Arna heitins Grímssonar) eckert fá ad vita. Fyrst þann

11ta

11ta Sept. fær Runólfur og Cecilia fyrirspurn frá Þórdísi Klemensdóttur, hvört þau vildu ánægiast ad taka helmíng arfs med sér, sem erfíngia eptir Arna Grímsson, og 3ia med honum óbludu barna í fostu og lausu? (vilie hann ei hótar hún Próceis); en Runólfur neitar því. Þann 26ta Septbr. stefnist hann og Valgerdur kona hans af talsmanni Þórdísar, er Sýslumadur Finnur hafdi henni skickad, til haldandi Réttar ad Saurbæ á Hvalfiardarstrønd, þann 19da Nóvbr. til ad heyra vitna framburd um trúlofun Arna heitins Grímssonar og Þórdísar Klemensdóttur og barnafadernis lýsíng hennar med eidi festa. Vegna Runólfs og konu hans mætir ad Saurbæ Løgréttumadurinn Brinjúlfur Einarsson af Hra. Stiptamtmanni skickadur ad uppihalda svorum þeirra, hvør medal annars frambýdur Þórdísi allann helmíng af lausafé Arna heitins Grímssonar, vilie hún þar med ánægd vera, og ei framar til arfs kalla eptir hann, en Þórdís neitar því. Ad sídustu próclamerar Sýslumadur Finnur Jónsson, þann 4 Febr. þ. á. fyrir haldandi Skipti-rétt sinn ad Bæ í Borgarfirdi, alla þessa Sterfbús Debi- og Creditorer, ásamt erfíngia Arna heitins, og heitir þeim øllu fogru um réttdæmi sitt; á þessu þíngi afleggur Þórdís fyrst, þann ádur fyrirheitna barnafadernis-lýsíngar-eid, og sver nú Arna Grímsson fodur til allra þeirra; þá er einnig framlogd auglýsíng frá



Cecilíu Péturedóttur, hvarí hún gëfur Þór-dísi Klemensdóttur, allann helmíng af föstu- og lausu-gótsi, sem átti Arni sál. Grímsson, svo mikid, sem hana áhrærir. Fyrir þessum Rëtti í Bæ, hvar Runólfur ei, né talsmad-ur hans mæta, frádæmir Sýslumadur F. Jónsson, Runólfi og konu hans, allann arf eptir Arna, en gëfur Þórdísi hann fulla skërf af föstu og lausu gótsi, sem hann var eig-andi ad. Þennan Dóm grundar Sýslumadur

1.) á vitnisburdi Prestsins Sra. Jóns Hialta-líns, um löglega trúlofun Arna heitins og Þórdísar.

2.) Eidsvornum 3ia vitna framburdi um sama efni.

3.) A Leyfis-brëfi, eda svo kolludu Gratis, Hra. Stiptamtmanns O. Stephánssonar.

4.) Auglýsingu Cecilíu Péturedóttur.

5.) Eidfestri barna-fadernis lýsingu Þórdísar Klemensdóttur og

6.) á N. L. 5—2— afvegafærdum og raung-um skilníngi 33ia artic.

Þótt nú þessi Dómur Sýslumanns Finns-stædi á svo mörgum fótum, hefir samt Run-ólfs af Há-ysirvaldi setti talsmadur, Sýslu-madur Sigurdur Pétursson kippt þeim flest-öllum undan, med því ad sýna:

a.) hvornig trúlofun egi háttad ad vera bædi eptir Lögum og Forordníngunum af 6ta. Febr.

Febr. 1694, og 19da Febr. 1783, en eptir engum af þessum Laga fyrirmælum hafa þau Arni heitinn Grímsson og Þórdís Klemensdóttir gengid í áformi eda undirbúníngi sins ektaskapar.

b.) Hefir velnefndur Sýslumadur vísad: ad vitnanna framburdur sé ei samstemma né svo fullkominn um þetta efni, sem vera ber; hér ad auk séu þau Þórdís Jónsdóttir módir Þórdísar Klemensdóttur og Jón Klemensson bródir hennar vilia-vitni, er sömuleidis vitni í sinni eigin sök, ad þau egi allann arfinn eptir Þórdísi Klemensdóttur ad henni fráfallinni.

c.) Ad attest Sra. Jóns Hialtalíns sé einasta grundad á lausum munnmælum annara, og ad hann med sáluhiálpar eidi sverie nudum posse fyrir certum esse ɔc.

d.) Med auglýsingar-skiali Cecilíu Pétursdóttur, sem sé einkis nýtt, þar hún hafi eckert mátt burtgéfa af arfi sonar sins til arfssvika vid dóttur sína.

e.) Ad sú í Bæ eidfesta barns-fadernis-lýsíng Þórdísar Klemensdóttur, sem frá var fallid í Saurbæ þann 19 Nóvembr. 1795 sé kraptlaus, þar hvorki hafi Runólfur verid þar til löglega stefndur, né heldur mætt.

f.) Ad ef Hra. Stiptamtmannsins útgéfna giptíngar-leyfi, sé eitt Privilegium dispensativum, kunni þad ei hafa nockra vim re-

troactivam, og sé útgéfid alleina einum mánnudi ádur Þórdís vard léttari, megi edur kunni eingannveginn ad præjudicera 3ia mann, fyrr enn. Þad var løglega birt og á lopt haldid, sem fyrst skédi ad Saurbæ Þann 19 Nóvembris.

Þessar og fleiri Runólfs Gissurssonar Prócúrators hér fyrir Réttinn framfærdu ákiærur móti dómi og framferdi Sýslumanns Finns Jónssonar í þessu máli, hefir Rétturinn samanborid vid Hérads-prócessinn, og fundid þær gyldar, og enga af þeim giørda um skør fram; hvorium og sá af Hra. Stiptamtmanni setti Prócúrator Þórdísar Klemensdóttur, sem hér og mætti Sýslumanns Finns Jónssonar vegna, Sýslumadur Vigfús Þórarinsson, hefir í engu hneckt; því dæmist fyrir rett:

Ad sá af Sýslumanni Finni Jónssyni þann 5 Febr. nærstl. afsagdi Hérads-dómur í Arfaþrætu-máli eptir Arna heitinn Grímsson frá Brecku á Hvalfiardar-strønd, skal hér med giørsamlega upphafinn, og til einkis skada eda hneckirs koma Runólfi í Hrísakoti edur konu hans Valgérdi Grímsdóttur í þeirra løglegu arfa-tilkalli eptir Arna heitinn Grímsson í krapti af N. L. 5--

2--

2--33; tilskyldast hérmed þess vegna Þórdís Klemensdóttir ad afhenda aptur allann þann sama arf til hiónanna Runólfs og Valgérdar edur þeirra umbods-manns, undir svarinn sáluhiálpar eid, ef þess krafid verdur, samt svara málskostnadi fyrir Hérads-rétti 4 rdlm. Sýslumadur Finnur skal og einninn apturskila því Runólfi, er hann meira tekid hefir í skrifara-peninga enn N. L. 1--23--7 tilskilur; fyrir sinn óloglega dóm og umgáng í þessu máli, skal hann betala til Justitz-Kassans 1 rdl., og til Runólfs í Hríśakoti 6 rdli í Prócess-kostnad til þessa Réttar, allt innan Laga-termíns undir adför og Execútión ad Løgum.

Sýslumadur Vigúss Þórarinsson appellerar frá þessum Dómi vegna Sýslumanns Finns Jónssonar, en vill og hafa Þordísi Klemensdóttur forbeholdid ad appellera eptir velþócknan.

Vidara var upplesid fyrir Løgþíngis-riettinum svolátandi Peninga uppbod:

Af Hospitalanna peníngum í Skálholts-Stipti, eru nockrir peníngar ad fá til láns

 mót

mót Laga-rentu og tilstreckilegum panti, sem ei er neinum skada undirorpinn, sem og eptir allranádugast tilskipudum skilmálum í Plakati af 10 Apr. 1795. Þeir lysthafandi vildu þar um korrespondera vid Inspectores, Biskupinn Dr. Hannes Finnsson og Løgmennina M. Stephensen og M. Olafsson.

Øxarár Løgþingi, þann 15 Júlí. 1796.

H. Finnsson. M. Stephensen. M. Olafsson.

## NUM. XXV.

Þann 6 Aug. ad Leirá í Borgarfirdi setti Hra. Løgmadur M. Stephensen Løgþingis-rétt, til Dóms-úrskurdar þeirra mála úr Stranda-Sýslu, sem þann 22 Júli þ. á. urdu ei af Løgþingis-réttinum dæmd, vegna vantandi høfud-skiala í skuldamáli Haldórs Jakobssonar, hvør Løgþingis-skrifarinn Th. Nicolaison nú í Løgþingis-réttinum nálægur framleggur í Réttinn. Þeirra literæ vóru vid Prótócollinn ad framan samanbornar og samhlióda fundnar, hvørs vegna sama dag var af Hra. Løgmanni Stephensen afsagdur svo látandi Dómur í nærveru Løgþingis-skrifarans og 4ra tilkalladra Løgréttu-manna, nefnilega: Sveinbiørns Þórdarsonar, Olafs Péturssonar, Hermanns Olafssonar og Jóns Jónssonar, hvørier 3 sídurstu fyrir Réttinum sóru Løgréttumanna eida:

Af

Af þeim morgu Hérads-prócessum og skiol-
um, sem framlogd eru fyrir Logþingis-réttinn
í Kauphøndlunar-skulda-máli þess frádæmda
Sýslumanns Haldórs Jakobssonar, er ad
ráda: Ad sú Konúnglega Íslendsku Høndlun-
ar Realísatións Commissión í Kaupmanna-
høfn, hafi óskad af því Konúnglega Rentu-
kammeri, ad þad léti hiá nefndum Haldóri
Jakobssyni innkrefia skuldir hér á landi, sem
hiá honum tiáduft ad innistanda til fyrrver-
andi almennilega Høndlunar Félags, hvørs
útistandandi skuldir Kóngurinn, ásamt Íslands
Høndlun, til Sín innleysti. Þess vegna selur
Rentukammerid innkrofu nefndrar skuldar Hra.
Stiptamtmanns Olafs Stephánssonar Um-
sión á hendur, í bréfi af 17 Sept. 1790,
en hann aptur med skickun af 31 Oct. s. á.,
og endurnýadri af 4 Nóv. 1793, Sýslu-
manninum í Stranda-Sýslu Jóni Jónssyni,
sem þann 14 Martsi 1791 skipar Einari
nockrum Jónssyni á Kollafiardarnesi ad log-
sækia Haldór Jakobsson fyrir sínum Rétti,
en 1794 Hreppstióra Andrési Sigmunds-
syni á Skridnesenni hid sama. Hérum er
fyrst þingad þann 28 April 1791, ad Kirk-
iubóli, hvar Haldór Jakobsson neitar þeirri
uppá hann lýstu skuld, svo sem ósannri ad
mestu ef ei ollu leiti, krefur ad sækiandinn
sanni krofu sýna, qvedst ei hafa þá vid hond
skilríki, er sýna megi hvørsu ránglega hann sé
sakfudur um hana, en voni þau finnist í sterf-
búi

búi Jóns Jónssonar á Gróustödum, hvorn Haldór fèck af Hra. Stiptamtmanni Thódak 1775 settann til ad ransaka þau hondlunar-reikninga ósannindi, og annann afdrátt vid sig, yfir hvorium hann þá strax hafdi inngèfid til háttnefnds Hra. Stipamtmanns þúnga umqvortun, og loksins assegir Haldór allar á-kiærur í þessu máli; á þessu þingi eru alls engin skilríki um krofuna framlogd af sækianda, en Haldór þó med Rèttarins úrskurdi í fyrsta sinn skyldadur til ad mánadarfresti ad hafa innsendt til Sýslumanns Jóns Jónssonar skiol, sem sýni ad skuldin sè ad mestu, ef ei ollu ósonn. Því næst kèmur mál þetta fyrir Rètt ad Broddanesi þann 24 Aprilis 1794, hvar Haldór medal annars assegir ad gánga í rètt mót Andrèsi Sigmundssyni á Enni, sem illa ræmdum, og þá um sama leiti fyrir Rètti á-kiærdum med grófum stefnum, og ber fyrir sig N. L. 1—9—8, en Rèttarins úrskurdur tekur samt Andrès gyldann til þeirra málssókna og Héradsdómarinn Sýslumadur Jón Jónsson vill sama styrkia med atteski Prestsins Sra. Sveins Jónssonar á Prestsbacka, logdu fram fyrir Logþingis-rèttinn, í hvoriu þó ei finnst annad vitnad um Andrès árin 1793 og 1794, enn ad hann sè forstandugur. En — hvornin sem honum er varid, sem hèr er eingan-vegin af nockrum svo upplýst, ad nockud inegi um Andrèsar rykti og hæfilegleika til málssókna álykta, lagdi hann fram á sama Broddaness-

Þíngi, Copíur af Krambúdar-reikníngum: úr Stickisbólmi fyrir árid 1767, í hvørium lýs-ist til 71 rds. 55½ ßs. skuldar biá Haldóri til fyrrverandi almennilega Hondlunar Félags, og úr Reykiarfirdi fyrir árid 1776, hvørt Haldór tiáist þad ár átt hafa ad gialda 165 rdli. 27 ßa., tilsamans 236 rdli. 82½ ß., og þessa summu krefur sœkiandinn Andrés med stefnu-fyrirkalli sinu ad Haldór sýni ad mestu, ef ei øllu leiti ósanna ad vera, þad er: í stadinn fyrir ad fullnægia N. L. bodordi í 1—14—5 og 5—13—45, med því ad sanna krofu sína til Haldórs, heimtar hann ad Haldór sanni ad hann ecki sé skuldugur, og þess vegna eitt non factum, til hvørs Logvitrir menn líta opt-ar óhýru augu og nefna þvílíkar sannanir, nema hvar merkustu líkur finnast, probationes diabolicas; þó dœmir Rétturinn Haldór á ný til þeirra skyldugann innan Júlí mánadar loka 1794, og assegir ad láta meta, hvørt þeir Contra-reikníngar séu sanngiarnlegir, sem Haldór fyrir sama rétt inngéfur, og télur sig í þeim ecki einúngis skuldlausann vid Reykiar-fiardar-hondlun, heldur ega þar til góda, en hvad mikid, greinir ei Prócessinn. Ofanœdur med þennan Prócess og Dóm, tekur Haldór þann 19 Júlí s. á. út yfir honum Logþíngis-réttar-stefnu til næsta Logþíngis, hana birtir hann vidkomendum á Broddaness-manntals-þíngi 1795, en þar fer þá eingu ad sídur fram nýr Prócess mót Haldóri, og aptur þann

27da



27 Maí næst eptir, mót Haldórs fyrir Rétt-
inn innsendu áskogn ad taka gienmælum, þola
nýia logsókn og dóm um þetta skuldamál, fyrri
enn Logþingis-réttar-dómur væri fallinn um
hinn fyrra, en þess var ei gætt, heldur dæmt
ad Haldór, med lángri þogn álitist ad hafa
vidkannast restansinn, og í framlogdu innleggi
ad Broddanesi þann 24 Apr. 1794 einninn
vidkannast ad vera færdur í 165 rdla 27 ßá
restans fyrir árid 1776, þó hann 1775 hafi
klagad yfir ófonnum krambúdar reikníngum;
somuleidis ad hafa vidurkénnt allt med fram-
logdum Contra-reikníngum, þar hann í þeirra
lok hafi skrifad: haver jeg siden tilgode hos
Handelen 31 Rdlr. 63 ß. þó ad Prócessinn
syni hér alls enga summu tiltekna; og loksins
dæmist Haldór, þar hann ei hafi sannad ósann-
indi þessarar skulda-lýsíngar, skyldugur ad borga
giorvallar skuldirnar eptir Stickishólms og
Reykiafiardar ójofnudu búda-reikníngum med
236 rdlm. 82½ ßi. innan ársloka 1796 og 12
rdlm. í málskostnad. A Logþinginu 1795 mæt-
ir Haldór Jakobsson med sína stefnu, en
engir hans mótpartar, hvörium því var log-
dagur lagdur til þ. á. Logþingis, hvar Hal-
dór framleggur nýia framhalds-stefnu til Log-
þingis, yfir þeim sídar gengna Hérads-dómi
og Sýslumadur Jón Jónsson Logþingis-
Contra-stefnu til Haldórs; hafa þar bádir
sókt og varid þetta vafasama skulda-mál, med
morgum og bitrum innleggium undir Dóm,

vid

vid hvors uppsögn Lögþingis-rétturinn finnur þetta í málinu einna athugaverdast:

1.) Vidvíkiandi þeirri nú 29 ára, en þá mál þetta í Héradi höfst 1791, 24 ára gomlu 71 rds. 55½ ßs. skuld til Stickisbólms, hvoria Haldór Jakobsson hvorki hefir vidkannast, né heldur er fyrir Réttum, eptir því, sem Prócessarnir med sér bera, nockurntíma krafin, ákærd, játud, upphyngd, edur med odru móti giord gyldandi og vafalaus eptir N. L. 5—13—2, má nefndur Laganna Artikuli, samanborinn vid Jóns-bókar Kaupab. *VIII* Kap. og N. L. 5—5—3, vera reglan, því framar, sem a) Hefdar-réttur hér má vafalaust tilkoma Haldóri, sem ødrum, b.) Eignir og hefdarhald manna stædu jafnan á ofveikum grundvelli, ef hvørr einn gæti krafid óvissra og máské uppdiktadra skulda, ad margra ára fresti og skuldunautum á stundum frásollnum, án þess, ad fylgia þeim reglum, er Lögin fyrirskrifa í nefndum greinum, iá, margur mundi annars nýta sér tækifærid, til ad uppskéra þar, sem hann ecki sádi. c) Undir eins og Lögin giøra vissar eignir manna, straffa þau þá forsómunarsømu í seinun og innkrøfu skulda sinna, med þeirra missir, ad 20 árum lidnum.

2.) Bædi í þessarar skuldar tilliti og hinnar frá Reykiafiardar kauphondlun, þá málid í Héradi höfst 15 ára, en nú 20 ára gomlu 165 rdla 27 ßa lýstu skuldar, er og adgætandi

andi: a.) ad hvorug nockurntíma er løglega sönnuð eptir N. L. 5—13—45, samanbornum við 1—14--5, b.) engin undirskrift og játun Haldórs er framlogd, eptir N. L. 5--13--47, c.) engin Contra-bók skoðuð eda í Prócessiinum ad finna, þó Haldórs innlegg, fyrir Rétt ad Broddanesi framlagt þann 24 Apr. 1794, bióði hana fram og adra Kaupmanna-reikninga til samburdar, d.) er skuldin sífellt neitud af Haldóri, en engin önnur skilríki um hana framløgð af sækiendum, enn lausar Copíur af gomlum Krambúdar-bókum þess fyrir laungu útdauða almennilega kaupskapar Félags, og þær hvorki sannaðar af Notario publico í Kaupmannahøfn, né nockurri Yfirvalds-persónu, géfa því eptir N. L. 5---13---50, já siálfri Octroyen af 15 Aug. 1763, samanborinni við Forordníinguna af 13 Júní 1787 í *II* Kap. §. 18, lítil skilríki um skuld þessa, hvoria Haldór e.) hefir strax 1775 með kløgun til Háyfirvaldanna ákiært, sem ósanna, og fengið þar til settann mann Jón á Grønstødum til ad ransaka hans málefni, um hvors adgiørdir Hérads-prócessarnir eckert nefna, f.) er eckert upplýst um gyldi og ásigkomulag þeirra Krambúdar-bóka, eptir hvørium Copíurnar eru skrifadar, né um Yfirvaldanna uppáskriftir á þær, sem løgin útheimta.

3.) Eins og það þessvegna er víst, ad þær fyrir Hérads-réttina framløgðu Krambúdar-

bóka

Böka-Copíur, eru enn sem stendur á bord vid ómerka og vafasama reikninga, hvad og máské segiast má um Haldórs framlagdu Contra-reikninga, svo var þad nálægt Réttorneitun, ad Sýslumadur Jón Jónsson ecki eptirlét Haldóri Jakobssyni giördarmenn, sem eptir N. L. 5--13--4 skoda og meta kynnu sanngirni hans reikninga mót hinum, né heldur leyfdi ad þingsvitni þar um tækist, ad bón hans, ádur Dómur, til stórkostlegra útláta yfir hann gengi, eptir svo léttvægum rokum.

4.) Ad Haldór í sinn innleggi 1794, á Broddanes-þingi nefnir sonni reikninga-summu eptir Contra bók sinni, sem ei var skodud, og Reykiarfiardar-búda-reikningar 1776 tiltaka, væri vitni honum á móti, ef hann ei 1775 og ætíd hefdi átalid þá, sem ósanna.

Vid Hérads-Prócessins formalia finnur Lögþingis-rétturinn þess sidara Próces og Dóms 1795 afhendingu án innsiglis, gagnstæda N. L. 1--23--16, fyrir utan ein og önnur misskrifud Data, og einkanlega ad Héradsdómnrinn 1795 nefnir ad Haldór segi sig ega til góda eptir Contra-reikningum sínum 31 rdl. 63 ßa., hvar um þeir siálfir í Prócessinum 1794, bera eckert. **Því dæmist rétt ad vera:**

**Þeir ad Kirkiubóli og Broddanesi í Stranda-Sýslu, af Sýslu-**

C ... manni

manni Jóni Jónssyni uppsögdu Urskurdir og Dómar þann 28 Aprílis 1791, 25 Apríl. 1794 og 27 Maí 1795, í Haldórs Jakobssonar kauphøndlunar-skulda-máli, eru hérmed af Løgþíngis-Réttinum metnir ógyldir. Eptir þeim fyrir Hérads- og Løgþíngisréttina vid þessa málssókn enn framkomnu skiølum, er Haldór Jakobsson frikekinn frá, ad gialda frampegis, þá uppá hann lýstu en ei sonnudu Skuld til Stickisholms-høndlunar, fyrir árid 1767, hlaupandi til 71 rds. 55½ ßs., í krapti af N. L. 5--13--2, 45, 47, 48, og 5--5--3: sømuleidis frá ad borga þá seinni 165 rdla. 27 ß. skuld til Reykiarfiardarkauphøndlunar, uns mál þetta er henni vidvikiandi á ný í Héradi upptekid frá rótum, betri skilríki eda miklar líkur framkoma, sem giora mættu Haldóri Jakobssyni naudsyn ad veriast henni, med gøgnum, vitnum edur eidi, og hans contra-reikníngar eru mót

fram-

krambúdar-reikníngunum af útnefnandi giordar-mønnum skodadir og metnir eptir R. L. 5--13--4 og 1--5--14. Í málskostnad betali Sýslumadur Jón Jónsson, Haldóri Jakobssyni 8 rd. Courant, innan 4ra vikna frá þessa Løgþíngis-réttar Dóms løglegri auglýsíngu, undir Adfør eptir Løgum.



Eptirfylgiandi
# Bréf og Kauplýsíngar
vóru fyrir Løgþíngis-réttinum uppleſnar
Anno 1796.

1. Köngl. Confirmation uppá testament hiónanna Magnússar Biarnasonar og Arnleifar Jónsdóttur, ad hvort þeirra, sem lengur lifir, behaldi þess afdauda eptirlátnu fémunum, dat. 23 Mai 1794.

2. Afsalsbréf Sýslumanns V. Þórarinssonar, uppá Prestsins Sra. Hallgríms Einarssonar Thorlacius's vegna á eydi-jordunni Fit undir Eyiafiollum, 10 hundr. ad dýrleika til bóndans Sniólfs Þórsteinssonar fyrir 20 rd. Cróner, dat. 15 Júní 1792.

3. Afsalsbréf Mr. Þorfinns Þorbiornssonar, á jordunni Qvíkstødum 20 hundr. inn-

 an

an Borgarfiardar-Sýslu til Prestsins Sra: Jóns Grímssonar, fyrir 120 rdl. Cour. til Specie reiknada, dat. 5ta Octóbr. 1793.

4. Pante-Obligation Ole Thordersens Thorlacius's, hvorved han tilstaaer at være skyldig til de udi det Islandske Interessentskab forenede Herrer Hof-Agent Herman Diderich Jansen, Gerhard J. Cappe & Schnelle, Friderich L. Konow og Georg F. Wedler i Bergen 2500 Rdler. D. C., dat. Isefiords Kiøbstæd i Island d. 26de. September 1795.

5. Samníngur Félagsbrædranna Halls Þorkélssonar og Biarna Magnússonar, dat. 17da Júní 1793.

6. Affalsbréf bóndans Jóns Jónssonar á hiáleigunni Búdum undir Kirkiufelli í Eyrarsveit og Snæfells-Sýslu, til Borgarans Sr. Haflida Helgasonar, fyrir 32 rdl. Cróner, dat. 26ta. Octóbr. 1795.

7. Köngl. Confirmation uppá testament hiónanna Sveins Jónssonar og Geirlaugar Sveinsdóttur á Kleifastedum innan Barda-stranda-Sýslu, ad hvört þeirra, sem lengur lifir, skuli vera erfíngi ad þess burtdauda fémunum, dat. 20ta Janúarí 1792.

8. Affalsbréf Jóns Jónssonar eldra á $4\frac{1}{2}$ hundr. í Qvíindisfelli í Tálknafirdi med 1 kúgl. til Jóns Gunnlogssonar á Backa, fyrir 54 rd. til Specie, dat. 6 Júní 1792.

9. Magnús Haldórsson lýsir í Kuld og Kion frillusyni sínum Gudbrandi Magnússyni, dat. 14da Martsi 1795. 10. Af-

10. Afsalsbréf Páls Sveinssonar á Gil-koti 10 hundr. í Litingstada hrepp til Gud-mundar Jónssonar, fyrir 40 rd. Cróner, dat. 16da August 1794.

11 Afsalsbréf Sysslumanns F. Jóns-sonar á 10 hundr. í jordunni Hvítanesi ligg-iandi á Akranesi med tilheyrandi kúgl. til Mr. Péturs Jónssonar, fyrir 9 rd. 8 ßa. Cour. hvört hundrad, dat. 21ta Júní 1794.

12. Makaskipta-bréf Hra. Lögmanns M. Stephensens vegna Hreppstióranz Mr. Péturs Jónssonar á jordunni Ósi 12 hundr. í Skil-manna-hrepp, til Einars Biornssonar, fyrir 10 hundr. í jordunni Hvítanesi, dat. 29 Maí 1795.

13. Afsals-bréf Prestsins Sra. Magnús-ar Erlendssonar á jordunni Gardsvíkurgerdi 10 hundr. innan Þingeyiar-Sysslu, til Mr. Þor-leifs Jónssonar fyrir 100 rdli Cour., dat. 30 Júní 1795.

14. Afsals-bréf Prestsins Sra. Magnús-ar Olafssonar eptir fullmakt Klausturhaldar-ans Sgr. Páls Jónssonar á efri Reinivollum $7\frac{1}{2}$ hundr. í Kálfafells kirkiu-sókn, til Jóns Biarnasonar fyrir 24 rdli Crón., dat. 4 Aug. 1794.

15. Afsals-bréf Sra. Eiríks Olafssonar á jordunni Huppahlyd 24 hundr. innan Húna-vatns-Sysslu, til Mr. Jóns Jónssonar á Mel-um fyrir 15 hundr. í Nedranúpi innan somu Sysslu, og 36 rdli Crón. ímilli, dat. 12 Febr. 1788.



16. Affals-bréf Jóns Biornssonar á jordunni Fossi 16 hundr. innan Húnavatns-Sýslu, til Biarna Jónssonar, fyrir 66 rdlr Crón. dat. 28 Sept. 1784.

17. Affalsbréf hlutadegenda í Sterfbúi Þórdar sál. Jónssonar á Arbæ, á hvors þeirra parti í jordunni Lángholti 10 hundr. liggiandi í Flóa innan Arness-Sýslu med 3. kúgl. til Mr. Þorálfs Þorbiornssonar fyrir 102 rd. 21 ß. Cour., dat. 17 Sept. 1795.

18. Makaskipta-giorníngur Mr. Gud-mundar Þórdarsonar á 4 hundr. 60 áln. í heima-jordunni Middal innan Kiósar hrepps til Biorns Ísleifssonar fyrir 4 hundr. í Laxár-nesi í somu sveit, dat. 17da Maí 1796.

19. Makaskipta-bréf Jóns Gíslasonar á 10 hundr. í Prándastodum í Kiós med 2ur kúgl. til Snorra Sigurdssonar í Eingey fyrir Kaldárhofda 10 hdr., í Grímsnesi innan Arness-Sýslu med 2ur kúgl., dat. 7da. Júlí 1796.

20. Sama innihalds.

21. Affalsbréf Sigurdar Runólfssonar á 10 hundr. í jordunni Hvammi innan Arness-Sýslu til Jóns Sæmundssonar fyrir 72 rd. Cour., dat. 21ta Febr. 1795.

22. Affalsbréf Jóns Sæmundssonar á 10 hundr. í Hvammi innan Arness-Sýslu, til Mr. Sigurdar Arnasonar fyrir 72 rd. Cour., dat. 13da Júlí 1795.

23. Affalsbref Sigurdar Arnasonar á 10 hundr. í Hvammi innan Arness-Sýslu, til Mr.

Mr. Þórálfs Þorbiornsſonar fyrir 74 rd. Bankó, dat. 13da Octóbr. 1795.

24. Vogreks-lýſing Sýſlumanns Jóns Sveinsſonar í Múla-Sýſlu.

25. Handels-Contract imellem Borger og Groſſerer Georg Andreas Kyhn i Kiøbenhavn og Niels Orum Borger og Kiøbmand i Eſkefiord i Island, dat. Rødefiords Handelsſtæd den 21de Junii 1795.

26. Affalsbréf Capellans Sra. Magnúſar Erlendsſonar á jordunni Kambsfelli í Eyiafiardar-Sýſlu, til Mr. Helga Haldórsſonar, fyrir 150 rdli. Cour., dat. 2 Jan. 1796.

27. Affals-bréf Jóns Brinjúlfsſonar Thorlacius's á jordunni Stóru-grund í Eyiafirdi, 80 hundr. til Sýſlumanns Jóns Jakobsſonar, fyrir 300 rdli Crón., dat. 31 Aug. 1782.

28. Affals-bréf Klauſturhaldarans Erlendar Hiálmarsſonar á jordunni Midvík innan Nordur-Sýſlu 20 hundr. til Mr. Þorleifs Jónsſonar, fyrir 200 rdli Cour., dat. 18 Júní 1796.

29. Affals-bréf Hra. Stiptamtmanns O. Stephánsſonar, á Ꝑeirri vid Auctión ſeldu, afgengna Landfógeta S. Magnúsſonar Sterfbúſs-jord Stockhólmi 10 hundr. innan Skagafiardar-Sýſlu med einu kúgl. til bóndans Jóns Biarnaſonar fyrir 80 rdli, dat. 27 Oct. 1795.

30. Affals-bréf Margrétar Eggertsdóttur á eydi-jordunni Ölduhrigg 10 hundr. innan Hegraneſs-Sýſlu, til Sigurdar Olafsſonar,

fyrir 26 rdli 32 ßa. Courant, daterad 22ann Mai 1794.

31. Afsals-bréf Jóns Brinjúlfssonar á Arnarstodum í Hóla kirkiusókn til Sýslumanns Jóns Jakobssonar fyrir 165 rdli Cour., dat. 19 Aug. 1778.

32. Afsals-bréf Þorláks Biornssonar á jordunni Audni 10 hundr. liggiandi í Olafs-firdi, til Mr. Olafs Bergssonar, fyrir 50 rdli. Spec., dat. 4 Júlí 1793.

33. Afsals-bréf Þorbergs Jónssonar á jordunni Badi 20 hundr. liggiandi í Helga-stada þingsókn, til Mr. Jóns Sigurdssonar, fyrir 70 rdli., dat. 26 Júní 1795.

34. Afsals-bréf Løgmanns Sveins Sølvasonar á allri eign systranna Mad. Þórunnar Hannesdóttur og Mad. Gudlaugar Stephánsdóttur í jordunni Espehóli í Eyiafirdi. til Sýslumanns Jóns Jakobssonar, fyrir 94 rdli Spec. Somuleidis selur Klausturhaldari Lauritz Hannesson Schéving sina eign í somu jordu med Vidirgerdi, til velnefnds Sýslumanns, fyrir jardirnar Prastarhól, Litladal og Kálfagérdi innan Vedlu Sýslu, samt 5 rdli Spec. milli-lag til Klausturhaldarans, dat. 18 Sept. 1776.

35. Sýslumadur B. Thómasson lýsir arfi eptir Þóru sál. Sigurdardóttur, sem deydi ad Gráśidu innan Nordur-Sýslu, dat. Gardi þ. 18da. Júní 1796.

36. Afsalsbréf Prestsins Sra. Magnúsar Sigurdssonar á jordunni Kolvidarnesi 16 hundr.

hundr. med einu kúgl. til Gullsmids Mr. Þorbiorns Olafssonar fyrir 100 rd. Cour., dat. 15 Mai 1794.

37. Afsalsbréf Jóns Sigurdssonar á Kadalstødum 40 hundr. innan Myra-Syslu med 4 kúgl. til Mr. Þorbiarnar Olafssonar fyrir 240 rd. til Specie, dat. 3ia Octóbr. 1794.

38. Afsalsbréf Borgarans Sr. Haflida Helgasonar á hálfri jordunni Qvíum 20 hdr. og 2 hundr. í afbýlinu Hermundarstødum, hvorttveggia liggiandi innan Myra-Syslu, til Mr. Þorbiarnar Olafssonar fyrir 144 rd. Specie, dat. 4 Júní 1795.

39. Handels-Contract imellem Borger og Grosserer i Kiøbenhavn G. A. Kyhn, J. A. Wulff Borger og Kiøbmand i Reikevig i Island, samt Ole Gislesen Waage Borger og Kiøbmand i Oefiords Kiøbstæd, dat. 10 Oct. 1795.

40. Pant-Obligation O. G. Waages' med 500 rda. Capital, sem hann á í Eyiafiardar hondlun, fyrir af Hr. Wulff lánada 500 rdl., dat. Eyiafiardar Kaupstad þ. 10 Oct. 1795.

41. Afsalsbréf Arna Asmundssonar á jordunni Myrarlóni 20 hundr. liggiandi í Glæsibæiar hrepp, til Mr. Daníels Andréssonar fyrir 80 rd. Spec., dat. 25 Maí 1789.

42. Afsalsbref Syslumanns Jóns Jakobssonar, sem Skipti-forvaltara í Sterfbúi sál. S. Bech á þeirri pantsettu jørd Hvammkoti í Modruvalla kirkiu-sókn til Daníels Andréssonar fyrir 90 rd. til Sp., dat. 3 Aug. 1786.



43. Affalsbréf Capellans Sra. Magnús-ar Erlendssonar á jördunni Þrem 20 hundr. í Kaupángs sókn til Daniels Andréssonar, fyrir 140 rd. Courant, dat. 28 Oct. 1795.

44. Affalsbréf bóndans Sveins Þorláks-sonar á Hvammi 35 hundr. innan Modru-valla klausturs kirkiusóknar, til Mr. Daniels Andréssonar, fyrir 148½ rdl. til Spec., dat. 13da Nóvembr. 1788.

45. Prósentu-Contract Jóhannesar Jóns-sonar á hans fémunum med erfingia samþycki til Prestsins Sra. Jóns Jónssonar, dat. 25 Júní 1796.

46. Affalsbréf Oddfridar Hallbiörnsdótt-ur á hálfri jördunni Grímsstødum innan Myra Sýslu 8 hundr. til Gudmundar Einarssonar og hans systkyna Þorsteins og Gudrúnar fyr-ir 48 rdl. Spec., dat. 29 Júní 1793.

47. Affals-bréf Fríhandlarans Biarna Magnússonar á jördunni Hamri innan Myra Sýslu 8 hundr. til Mr. Hiálmars Gudmunds-sonar fyrir 48 rdl. Cour., dat. 12 Octóbr. 1795.

48. Indridi Hallgrímsson lýsir dóttur sína Helgu Indridadóttur ekta og arfgenga til karls sem konu í allar ættir, eins sitt, sem móð-ur-kyn, dat. 2 Febr. 1796.

49. Giafa-bréf Mr. Jóns Sveinssonar á hálfri jördunni Lágafelli í Mosfells-sveit, med samþycki konu hans og hennar erfingia til son-ar hans Þorláks Jónssónar, dat. 12 Dec. 1795.

50. Af-

50. Affals-bréf Mr. Jörundar Asbiörnssonar á 6 hundr. í jördunni Ofeigsfirdi innan Stranda-Sýslu, til Mr. Jóns Arnasonar, fyrir 30 rdli Crón., dat. 12 Maí 1794.

51. Affals-bréf Mad. Helgu Jónsdóttur á jördunni Oddstödum 16 hundr. innan Húnavatns-Sýslu, til Mr. Magnúsar Olafssonar, fyrir 96 rdli Crón., dat. 19 Octobr. 1795.

52. Affalsbréf Gudrúnar Jónsdóttur á 4 hundr. í jördunni Munadarnesi innan Stranda Sýslu til Mr. Jóns Jónssonar fyrir 22 rd. til Specie, dat. 2 Maí 1795.

53. Giafa-bréf Sra. Eiríks Gudmundssonar og Helgu Eggertsdóttur á 5 hundr. í jördunni Brandagili liggiandi vid Hrútafiord, med 1 kúgl. til dóttur þeirra Haldóru Eiríksdóttur, dat. 29da Aug. 1795.

54. Köngl. Majestatis Affalsbréf á eystri parti jardarinnar Þorkotlustada 22 hundr. 30 áln. liggiandi í Gullbríngu-Sýslu, til ábúandans Odds Sigvaldasonar, fyrir 184 rd., dat. 8 Augústí 1787.

55. Köngl. Majsts. Affalsbref á jördunni innri Niardvík innan Gullbríngu-Sýslu til Eigils Sveinbiornsonar fyrir 752 rd. Cour., dat. 26ta Janúarí 1791.

56. Brigdarlýsing Arna Jónssonar og Jóns Jónssonar á hálfri jördunni Eiríksstödum í Svartárdal, innan Húnavatns-Sýslu, bióðast þeir til ad innleysa sömu jörd fyrir svo mikla penínga, sem hennar nú verandi ábúandi og eigandi hefir fyrir hana gefid. 57.

57. Köngl. Confirmation uppá testament hiónanna Magnúsar Olafssonar og Freygërdar Snorradóttur, ad hvort þeirra, sem lengur lifir, behaldi þess afdauda eptirlátnu gótsi, dat. 2 Febr. 1780.

58. Köngl. Confirmatión uppá testament hiónanna Gudmundar Olafssonar og Gudleifar Þorsteinsdóttur, ad hvort þeirra, sem lengur lifir behaldi þess afdauda eptirlátnu gótsi, en ad þeim bádum burtkolludum, falli þad til beggia þeirra erfingia, dat. 23 Octóbr. 1795.

59. Köngl. Opreisning á æru Olafs Ormssonar á Holl í Rángárvalla-Sýslu, dat. 22 Janúarí 1796.

60. Affals-bréf Prófastsins Sra. Gísla Þórarinssonar á hálfri jordunni Hlydarenda 12½ húndr. innan Rángárvalla-Sýslu, til Hra. Sýslumanns V. Þórarinssonar, fyrir 100 rdli Cour., án kúgylda, dat. 8 Apr. 1796.

61. Affals-bréf Prestsins Sra. Gudmundar Magnússonar á hans parti í Kaldárholti 17 hundr. innan Rángárvalla-Sýslu, til Arna Þorsteinssonar, fyrir 134 rdli Cour., dat. 17 Júlí 1795.

62. Köngl. Confirmatión uppá testament hiónanna Eiriks Biarnasonar og Gudrúnar Jónsdóttur, ad hvort þeirra, sem lengur lifir, behaldi þess dauda eptirlátnu gótsi, dat. 23ia Octóbr. 1796.

63. Giafabréf hiónanna Gudmundar Erlendssonar og Gudrúnar Pálsdóttur á ½ parti

úr

fir jordunni Keldum, nl. jordunni Tángu 10 hundr. med 2ur kúgl. í Reidarvatns Þingsókn til sonar Þeirra Páls Gudmundssonar, dat. 6 Júní 1795.

64. Assals-bréf Mr. Arna Olafssonar á 3 hundr. í Holti í Myrdal, til Mr. Jóns Jónssonar, fyrir 19 rdli Crón., dat. 12 Júní 1793.

65. Pante-Obligation Kjøbmand Jens Lassen Buschs og Henrich Christian Paus's, hvorved de tilstaae at være skyldige til Hr. Agent Johan Christopher Donner i Altona og Medinteressentere, den Summa 2528 Rdlr. 6 ß. Dansk Courant, dat. 21de Martii 1795.

66. Samme Kjøbmænd, J. L. Busch og H. Ch. Paus's Pante-Obligation, hvorved de tilstaae at være skyldige til den Kongel. Islandske Handels Realisations Commission den Summa 8000 Rdlr. D. C., dat. 8 Apr. 1795.

67. Kiøbmand Peder Holters Panteobligation, hvorved han tilstaaer at være skyldig til den Kongel. Islandske Handels Realisations Commission den Summa 3000 rdler., dat. 28. Decembr. 1795.

68. Ernst Mattias Heidemann Kiøbmand paa Grønnefiord i Island, hans Panteobligation for den Summa 4000 rdler., til den Kongel. Islandske Handels Realisations Commission, dat. 29de Martii 1796.

69. Assalsbréf Hra. Stiptamtmanns O. Stephánssonar á jordunni stóru Økrum med hiáleigum 80 hundr. og 5 kúgl. innan Skagafiards-



fiardar-Sýslu, til Þorláks Símonssonar fyrir 702 rd., dat. 27da Octóbr. 1795.

70. Giafabréf Þórunnar Biörnsdóttur á 4da parti úr hennar fénunum til Systurdóttur hennar Þórunnar Biörnsdóttur, dat. 27 Febr. 1794.

71. Qvittéring Biskups Hra. Sigurdar Stephánssonar, géfinn Prestinum Sra. Birni Jónssyni fyrir 157 rd. 79⅔ ß. betalada til Biskupsstólsins, dat. 9da April 1794.

72. Afsals-bréf Sýslumanns Jóns Jakobssonar á jørdunni Breckn í Kaupángs-sveit, 20 hundr. ad dýrleika til bóndans Jóns Arnasonar á Þverá, fyrir 150 rdli., dat. 13 Apr. 1793.

73. J. C. Sunchenbergs Fullmakt géfin Niels Lambertsen ad móttaka Handelsvørunum á Eyrarbacka, Selvogi og Þorlákshøfn m. v., dat. 18 Maí 1795.

74. J. C. Sunchenbergs Pante Obligation, hvorved han tilstaaer at være skyldig til den Kongel. Islandske Handels Realisations Commission den Summa 8139 Rdler. 4¼ ß., dat. 25de Junii 1795.

75. Brigdalýsing Arna Jónssonar á Odals-jørd hans Fossi 16 hundr. innan Húnavatns Sýslu, og frambýdur hann svo marga Peninga, sem fyrir hana sídast hafa géfnir verid, dat. 10da Júlí 1796.

76. Afsalsbréf Logþingsskrifara Thorleifs Nicólaisonar á hálfu Hlýdarendakoti 7½ hundr. med 100 áln. landskuld og 3ur kúgl. innan Ráng-

Rángárvalla-Sýslu, til Gudmundar Nicolai-sonar, fyrir 160 rdli Crón., dat. 26 Apr. 1796.

77. Brigdar-lýsing Gudmundar Eigilssonar vegna fóstursonar síns Jóns Eggertssonar á Hofi í Dýrafirdi frambiódandi Mr. Eiríki Thómassyni svo marga peninga, sem hann fyrir jordina géfid hefir, dat. 24da Júní 1796.

78. Umbidst ad Logþingisbókin framvísi í ár, ad frá Prestinum Sra. Jóni Jónssyni Beneficiato til Gilsbacka í Mýra-Sýslu, sæ eg samstundis bréf med Bilager, áhrærandi vinnukonu-toku hans í fyrra á skildaga frá Beneficio Reykholti, sem Hra. Sýslumadur Finnur Jónsson tiest áfríad hafa, en Presturinn forsvarar. Um þetta gétur ad sonnu eckert mál ordid nú í beggia fiærveru; en ad interim bidst hér med sá, sem áfríar ad sanna coram foro ákiæru sína, sem trúist hégómleg og ósonn ella.

Vid Oxará þann 16 Júlí 1796.

G. Ketilsson.

---

Sýslumadurinn í Sudur-parti Múla Sýslu Jón Sveinsson lét í Logþingis-Réttinum upplesa eptirfylgiandi Vogreks-lýsingu:

Udi næstafvigte October Maaned er paa Vadle Sand i Holms Tingsogn inden Sønder-Mule-Syssel, opdreven en Eege Skibs-jolle, uden Aarer, Mast, Roer og Tofter, dens Længde er fra Stevn til Stevn $8\frac{1}{2}$ Al.; men Bredde $2\frac{1}{4}$ Al. sammenhæftet med Træesøm.

Ingen



Ingen særdeles Kjendetegn kunne, ved det tagne Syn over samme Baad, af Besigtelsesmændene anmærkes, thi at den paa begge Siderne er beskadiget med betydelige Rister, som fornemmelig ere 3, hvoraf 2 ere hver for sig 1 Al. lange, men den 3ie ½ Al. omtrent, meenes at være foraarsagede, ved den Overlast, Baaden af Brem og Storm ved Landingsstaden er tilføiet. Hvilken saaledes som formeldt, ilde tilreedt Skibsjolle, der af kyndige Mænd er vurderet for 18 Mk. Cour. (hvorpaa dog hæfte Biærgnings-Løn) herved i Medfør af Kongel. Placat af 4de Maji 1778 saavel ved Islands Lavting, som i de Kiøbenhavnske og Altonaiske Tidender, til den Ende oplyses, at Ejermanden (hvis nogen er) inden Aar og Dag, fra denne Proclamations Publication fra Altona kunde indfinde sig hos mig. Eskefiord den 29 Dec. 1794.

J. Svendsen.

Ad þetta Agrip sé rétt útskrifad af Løgþingis-Réttar Prótócollnum Anno 1796, vitnar

Th. Nicolaison.

---

Pag. 25. lin. 18. Vigúfs les Vigfús.

